# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, MAÍ 1903. NR. 3.

## Sálmr

**út af Jóh. 15, 12—17—eftir séra Valdemar Briem.**

(Lag: Þökk sé þér góð gjörð.)

1. Eitt er hið œðsta
allra boðorðanna,
helgasta, hæsta:
hjartans ástin sanna.
Ekkert annað sýnir
eins guðs kærleik sannan.
Elskið hver annan.

2. Fórn hér að finna
fagra svo er eigi
sem vegna sinna
sjálfr maðr deyi.
Ekkert eins vel sýnir
ást og kærleik sannan.
Elskið hver annan.

3. Bróðir vor blíði
bezta dœmi léði:
lét fyrir lýði
lífið sitt með gleði.
Ekkert annað sýnir
eins hans kærleik sannan.
Elskið hver annan.

4. Viljirðu vera
vinr guðs og manna,
gott ber að gera,

gæta boðorðanna.
Ekkert annað sýnir
eins þinn kærleik sannan.
Elskið hver annan.

5. Vinir þá verið,
vægið, líknið, blessið,
byrðar hins berið,
bjargið, svalið, hressið.
Ekkert eins vel sýnir
yðar kærleik sannan.
Elskið hver annan.

## Hvað bjuggust Gyðingar við að Messías yrði?

Eftir próf. George B. Stevens.

Hin alþýðlega kenning Gyðinga um Messías samsvarar hugmynd þeirri, er þeir almennt gjörðu sér um guðs ríki. Messías skyldi verða sá, er innleiddi þá stjórn farsældar og friðar. Að því leyti, sem um guðs ríki var hugsað á veraldlegan hátt eða eins og jarðneskt konungsveldi, fékk kenningin um Messías samskonar blæ. Ef þetta sérstaka ríki átti að verða veraldlegt stórveldi, þá hlaut Messías að verða veraldlegr stjórnari eða þjóðhöfðingi. þessa vegna finnum vér, að eftir að langt líðr fram í sögu Gyðinga er þar aðallega hugsað um persónu og verk Messíasar í þessu ljósi. Því var trúað, að hann myndi standa fyrir almennri uppreisn hins útvalda lýðs gegn yfirráðum hins rómverska heimsríkis, slíta af Gyðingum hið hataða ok þeirrar harðstjórnar og kúgunar og binda þá saman undir þeirra eigin stjórn og á þann hátt gjöra þá sæla og volduga. Messías skyldi um fram allt verða sigursæll leiðtogi og hershöfðingi þjóðarinnar. Undir hans stjórn skyldi sorgir þeirra og þjáningar hætta, inndælt ríki hamingju og friðar hjá þeim sett á stofn, og hinar björtu vonir Ísraels um ókomna gullöld fullkomlega ná að rætast.

Í kenningum hinna miklu spámanna gamla testamentisins hafði Messíasi verið lýst sem andlegum lausnara og frelsara. Eigi þó svo að skilja, að verk hans skyldi verða að eins andlegs eðlis. Það skyldi í því verki verða tekið tillit til lífs-

ins hér, og það skyldi miðað við ástœður manna, að því er hagsæld þeirra og velgengni snerti, hér á jörðinni. Það skyldi hafa þýðing fyrir hið jarðneska félagslíf manna; en sú hlið verksins, sem mest áherzla var lögð á, snerti samband mannsins við guð, hina trúarlegu velfarnan og framför mannkynsins. Messías var sá, er kenna skyldi mönnum að þekkja og elska guð og að þjóna honum, og með sínu eigin lífi skyldi hann sýna þá fullkomnu helgan og þjónustu, sem mönnum bæri að láta koma fram í lífi sínu, guði til handa. En þegar tímar liðu fram, varð veraldlega hliðin á verki Messíasar aðalatriðið í huga Gyðinga. Hið andlega og spámannlega hlutverk hans þokaði þar algjörlega fyrir hlutverki hans sem stjórnara og leiðtoga í jarðneskum efnum. Frelsanin, sem búizt var við að hann myndi veita mönnum, snerti miklu fremr stjórnmála-ástandið en hinn andlega hag þeirra.

---

Samkvæmt þessu tökum vér eftir því, að á þeim tíma, er Jesús kom fram, var aðal-atriðið í Messíasar-hugmyndinni hjá öllum þorra fólks það, að hann ætti að verða jarðneskr drottinn og konungr. Draumar um jarðnesk völd og jarðneska dýrð fylltu sálir almennings á þeirri tíð. Menn voru nú ekki lengr til þess fœrir að útþýða lýsingar gamla testamentisins á persónu og verki Messíasar í sama skilningi, sem ráðið hafði hjá þeim mönnum, er upphaflega höfðu borið þann boðskap fram. Þar sem í spádómsbók Esajasar eru sýndar þjáningarnar, sem þjónn drottins tekr út, þá var því annaðhvort alls ekki sinnt, eða það var með hugviti miklu útþýtt svo, að það varð að engu. Gyðingar trúðu ekki á holdsvistardögum Jesú á líðanda og deyjanda Messías. Það var gagnstœtt gjörvallri hugmynd þeirra um persónu og hlutverk Messíasar, að hann biði ósigr og yrði að lokum að þola smánarlegan dauða. Hvernig gat það verið, að slíkar þjáningar biði hans, þar sem hann var af guði fyrirhugaðr sem hinn sigrsæli forvígismaðr þjóðar sinnar? Hvernig gat hann látið fyrirheitið um frelsan rætast, ef hann legði sjálfan sig undir dauðahegning?

Sannfœringin um það, að Messías myndi eiga sigri að

hrósa og verða konungr, láta óvini Ísraels fara fyrir sér hall-oka, og leiða þjóðina fram til dýrðlegrar sigrsældar, magnaðist stórum á árunum næstu áðr en Kristr birtist. Kúgan sú hin margvíslega og þjáning, sem þjóðin varð fyrir undir yfirráðum Rómverja, leiddi til þess mjög sterklega, að kenningin um hið fyrirheitna ríki guðs hjá Gyðingum varð veraldleg, en að sama skapi varð hugmynd þeirra um Messías jarðnesk og náknýtt við stjórnmála-ástandið í föðurlandi þeirra. Svo gagnteknar voru hugsanir þeirra af þrautum þeim og hörmungum, er þeir sem þjóð urðu að sæta, að nálega ekkert annað kom fyrir þeim til greina en frelsanin frá hinu hataða harðstjórnarvaldi Rómverja. Það var ekki neitt undarlegt, þótt hugboðið, er þeir höfðu fengið að erfð frá feðrum sínum, um það að góð og sæl tíð væri í vændum, yrði að trú á það, að Messías hinn fyrirheitni myndi láta þá gullöld og sólöld upprenna yfir þá. Það var í alla staði eðlilegt, að aðalatriðið í þeirri væntanlegu sælu myndi verða frelsan sú frá kúgan, sem þeir svo stöðugt voru neyddir til að hugsa um. Þegar allar ástœður þeirrar tíðar eru teknar til greina, þá verðr mjög auðvelt að gjöra sér ljóst, hvernig Messíasarhugmynd Gyðingatrúarinnar gat breytzt svo ömurlega til hins verra sem reynd varð á, hvernig úr hinni himinháu andlegu hugsjón gömlu spámannanna gat orðið hin jarðneska stjórnmálahugmynd um persónu og verk Messíasar, sem alráðandi var, þegar Jesús kom fram í Gyðingalandi.

---

Margt og mikið verðr fyrir oss í nýja testamentinu, sem ágætlega skýrir þessa alþýðlegu Messíasar-hugmynd hjá Gyðingum, er nú hefir verið bent á. Aðal-tilgangr freistingar Krists var, eins og margir hafa fyrir satt, sá, að hann skyldi þá skera úr því, hvort hann ætlaði sér að láta framkomu sína verða eins og almenningr ætlaðist til af Messíasi, ellegar sleppa þeirri hugsjón og ryðja sér aðra braut, sem stefndi miklu miklu hærra. Eitt atriði í kröfum þeim, er almenningr gjörði til Messíasar, var það, að hann framkvæmdi mikilfeng og hrífandi kraftaverk, að hann ynni sigr yfir óvinum sínum með því að láta birtast þau undr guðlegs máttar og valds, er

öllum œgði. Hœglega má líta á freistingarsögu Jesú í eyðimörkinni eins og myndasýning þessarar hugmyndar. Láti Messías, ef Jesús í raun og veru er sú persóna, sjálfan sig falla niðr af musterisbustinni ; láti hann steinana í eyðimörkinni verða að brauðum ; láti hann fólkið neyðast til að kannast við vald hans og köllun með slíkum áhrifamiklum sýningum hins guðlega máttar til að gjöra kraftaverk, svo miklum sýningum þeirrar tegundar, að enginn gæti skorazt undan að játa því, að hann væri hinn kjörni leiðtogi lýðs drottins. Það er vel líklegt, að hugmynd sú, er Jóhannes skírari gjörði sér um Messías, hafi að ýmsu leyti verið í samhljóðan við þessar skoðanir. Hann lýsti Messíasi svo, að hann bæri varpskúflu í hendi sér til þess að skilja hismið frá hveitinu og þannig að fullnœgja réttlætisdómi guðs. Hann myndi koma með voldugri auglýsing almættis-kraftar síns. Og víst er um það, að margir af lærisveinum Jesú gjörðu sér svona lagaðar hugmyndir um verk Messíasar. Þeir gjörðu sér von um háar tignarstöður í heimsríkinu hans. Þeir bjuggust við því, að Ísraelsríki myndi verða endrreist. Aðferð sú, er Jesús í reyndinni hafði, til þess að útbreiða sannleik sinn og grundvalla ríki sitt, leiddi til stórkostlegra vonbrigða fyrir marga, er honum fylgdu. Þeir gátu ekki skilið, hvers vegna hann léti vera að gjöra það, sem þeir ímynduðu sér að hann væri einmitt kominn til að gjöra.

---

,,Ætlar þú, herra!" — spurðu þeir hann — ,,á þessum dögum að endrreisa Ísraelsríki?" Hugsanir þeirra komust í hinn mesta rugling við það, að þeir sáu hann halda starfi sínu áfram án þess að fullnœgja neinu skilyrða þeirra, sem þeir töldu óhjákvæmileg fyrir því, að ríki hans gæti orðið stofnsett. Hann myndaði engan stjórnmálaflokk ; hann hóf enga uppreisn ; gaf ekki leyfi til þess að sverði væri nokkurn tíma beitt ; skoraðist undan allri hluttöku í stjórnmálum. Þeir gátu ekki skilið, að ríki hans væri andlegs eðlis, og að markmið hans var það, að gjörast konungr yfir hinu innra lífi manna. Á milli hinnar almennu Messíasar-hugmyndar og þeirrar, sem hann hélt fram í kenning sinni og með verklegri

framkomu sinni, var djúp mikið staðfest, sem hugsanir lærisveina hans gátu með engu móti brúað. Það var að eins smátt og smátt, undir leiðslu og upplýsing heilags anda, að þeim tókst að komast í skilning um hina andlegu skoðan, er hann sjálfr hafði á ríki sínu og verki.

En svo ófullkomin sem hugmynd almennings Gyðinga var um köllun Messíasar, svo afar mikið sem bar á milli hennar og hinnar háleitu hugsjónar spámannanna því máli viðvíkjandi, þá var þó engu að síðr sannleikskjarni í þeirri hugmynd. Það var sá sannleikr, að fagnaðarboðskapr Krists er fyrir þennan heim og hið jarðneska líf manna. Þótt andlegt sé, þá leiðir þó ekki af því, að það fagnaðarerindi sé óviðkomanda hinni margvíslegu skyldu og reynslu þessa lífs. Það er fagnaðarerindi, sem miðar að velfarnan mannfélagsins, einnig að því er veraldleg stjórnmál snertir; en það er það fyrir þá sök, að á undan öllu öðru er það fagnaðarerindi guðlegs lífs. Það er fagnaðarerindi fyrir mannlegt líf hið ytra af því að það er fagnaðarerindi fyrir mannlegt líf hið innra. Margir tilheyrendr Jesú gátu þó ekki skilið samband þessara tveggja hliða á kenning hans, eins og nú hefir verið á það bent. Þeim veitti ervitt að setja andlegu hliðina á undan hinni og að átta sig á því, að hið ytra og stundlega væri minna virði en hið innra og eilífa. Eitt af því, sem Jesús sí og æ lagði svo mikið kapp á að koma til leiðar, var það að gjöra mönnum unnt að skilja hið víðtœka markmið verks hans og hina margvíslegu þýðing þess fyrir lífið, svo að þeir setti það fremst, sem er fremst, og þannig kepptist eftir velfarnan félagslífsins hið ytra með því að láta hjörtu sín og líf vera í samrœmi við hinn heilaga vilja og tilgang guðs.

Ekki væri heldr rétt að segja, að Jesús sjálfr hafi ekki kennt neitt um sigr og tign Messíasar. Hann fór fullt eins sterkum orðum um heimsyfirráðin, sem hann átti í vændum, eins og nokkur af spámönnum gamla testamentisins. Hann hikaði sér ekki við að segja, að faðirinn hefði gefið allt í vald hans, alla hluti bæði á himni og jörðu. En hann átti að ná til þeirrar sigrvinningar ekki með því að seilast eftir verald-

legri upphefð, heldr á hinni guðlegu leið niðrlægingarinnar, með því að þjóna öðrum og fórna sjálfum sér. Ekkert er meira einkennilegt við meðvitund Jesú og verk hans en það, hvernig hann sameinaði það, er virzt getr allra sundrleitast og gagnstœðast: dýpstu niðrlæging og auðmýking annars vegar, en hins vegar mestu upphefð og hátign. Líklegt er það, að nafnið ,,mannsins sonr'', sem hann iðulega viðhafði um sjálfan sig, hafi hann af ásettu ráði tileinkað sér fyrir þá sök, að í því gátu eðlilega falizt báðar hugmyndir þessar runnar saman í eitt. Sumsstaðar í gamla testamentinu, þar sem orð þetta kemr fyrir, táknar það veikleik og niðrlæging, en annarsstaðar aftr á móti styrkleik og hátign. Nú sameinaði Jesús í sjálfum sér þetta hvorttveggja á al-fullkominn hátt. Hann lítillækkaði sjálfan sig, og fyrir þá lítillækkan varð hann upp hafinn. Vegr hans til konungshásætisins var krossferillinn. Hann lagði sjálfan sig fram til fullkominnar fórnar, gjörðist þjónn annarra í dýpsta skilningi orðsins, til þess á þann hátt fyrir kærleik sjálfsafneitunar sinnar að verða dýrðlegr. Hann var hafinn upp á krosstré háðungarinnar, og fyrir þá sérstöku upphafning varð hann þess um kominn að draga alla menn til sín.

Þetta sýnir oss, hvernig Jesús fullnœgir Messíasarhugmynd gamla testamentisins og þeirri, er réð almennt í huga Gyðingaþjóðarinnar. Í kenningum sínum og verklegri framkomu sinni heldr hann föstum aðal-sannleikanum, hinum andlega sannnleika þeirrar hugmyndar, en afklæðir hana öllum holdlegum og jarðneskum eiginlegleikum. Hann lyftir von Ísraels upp í hærra veldi, hefr hana til nýrrar tignar, með því að gjöra það opinbert, að með verki hans skyldi fullnœgt verða miklu œðra tilgangi guðs en Gyðingalýð nokkurn tíma hafði dreymt um.

---

## Saga Mikleyjar-safnaðar.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

---

Fyrstu Íslendingar fluttu til Mikleyjar árið 1876, og leið ekki á löngu, að þar yrði all-stór byggð meðfram ströndinni,

einkanlega austan á eynni. Fyrstu prestar Nýja Íslands, séra Jón Bjarnason og séra Páll heitinn Þorláksson, störfuðu báðir að kristindómsmálum í Mikley. Séra Páll fór alfarinn úr Nýja Íslandi 1879 og séra Jón 1880. Þá varð séra Halldór Briem kirkjulegr leiðtogi Ný-Íslendinga, og þjónaði meðal annars í Mikley. En hann hætti þar ári síðar—1881. Eftir það munu hinar upphaflegu safnaðarhugmyndir hafa dáið út hjá Mikleyingum. Um verulega hreyfing í þá átt, að mynda hinn núveranda lúterska söfnuð Mikleyjar, heyrum vér fyrst árið 1886. Fjórtánda dag Febrúar-mánaðar það ár var fundr haldinn á Söndum í Mikley, til þess að rœða um safnaðarmyndan. Sá fundr var boðaðr af hr. Jóhanni Straumfjörð og var hann kosinn fundarstjóri. Þann fund sóttu seytján karlmenn og nokkrar konur. Allir, sem fundinn sóttu, voru víst hlynntir safnaðarhugmyndinni, því af þeim karlmönnum, sem á fundinum voru, rituðu allir sig í söfnuðinn nema sá, sem boðaði til fundarins, og hefir hann þó sjálfsagt verið hlynntr safnaðarhugmyndinni, þótt hann, einhverra orsaka vegna, ekki gæfi nafn sitt á safnaðarskrá. Sú stefna var tekin þegar á þessum fundi, að sameinast kirkjufélagi voru. Þó heyrðust einhverjar raddir á móti því. Þriggja manna nefnd var kosin til að semja safnaðarlaga-frumvarp, og var það samþykkt breytingalaust á næsta fundi. Voru þá kosnir fyrstu reglulegu embættismenn safnaðarins. Fulltrúar voru: Sigrgeir Stefánsson, Jóhannes Helgason og Jón Jónsson; meðhjálparar: Stefán Friðbjörnsson og Lárus Helgason; féhirðir: Ragnheiðr Þorláksdóttir; skrifari: Lárus Helgason. Sjóðr fyrir söfnuðinn var myndaðr þegar á fyrsta fundi með frjálsum samskotum.

Þegar á fyrsta fundi var og rœtt um safnaðarhús. Var þar til í byggðinni gamalt hús, sem mönnum sýndist heppilegt til slíkrar notkunar. Gekkst hr. Jóhannes Helgason mest fyrir samningum við eiganda þess, hr. W. Clark, en ekki var þetta mál útkljáð fyrr en í Febrúar næsta ár, og var þá húsið borgað með 15 föðmum af eldivið. En með því að hús þetta var á austanverðri eynni, komu brátt fram raddir um það, að nauðsynlegt væri að hafa annað safnaðarhús fyrir þá,

sem byggi á vestrströnd eyjarinnar, en þó varð ekkert af því.

Á öndverðu ári 1887 var hreyfing í Nýja Íslandi í þá átt, að fá séra Magnús Skaftasen, sem þá var prestr á Íslandi, til að takast á hendr prestsþjónustu þar í héraðinu. Það kom brátt í ljós, er því máli var hreyft, að það var almennr vilji manna í Mikleyjar-söfnuði, að þetta gæti tekizt. Þráðu menn mjög, eftir langvaranda prestsleysi, að eignast andlegan leiðtoga. Á fundi 4. Marz 1887 var samþykkt, að Mikleyjarsöfnuðr skyldi vera með öðrum söfnuðum Nýja Íslands í því að reyna að fá séra Magnús. Þetta mál var svo rœtt á fundi 3. næsta mánaðar, og var þá ákveðið, að Mikleyjar-söfnuðr skyldi greiða $60.00 árlega til prests með því skilyrði, að söfnuðrinn nyti prestsins að fimmta hlut. En það hefir ekki getað orðið að framkvæmd, að söfnuðrinn fengi svo mikla prestsþjónustu þá.

Séra Magnús kom vestr það sumar og gjörðist prestr safnaðarins — og þjónaði honum í nokkur ár.

Þegar söfnuðrinn hafði um tíma notið reglulegrar prestsþjónustu, fór mönnum að sýnast gamla safnaðarhúsið ekki lengr fullnœgjanda fyrir þarfir safnaðarins. Á safnaðarfundi, sem haldinn var 25. Apríl 1889, var því fyrst hreyft, að söfnuðrinn byggði kirkju. Voru menn þegar í stað mjög einhuga í því máli og fúsir til að leggja fram hver það, sem hann gæti, þessu til stuðnings. Þeir, sem á fundinum voru, lögðu fram loforð, sem námu $73. Nefnd var kosin til að leita styrks þeirra, sem ekki voru á fundinum. Var unnið að þessu máli með kappi og áhuga. Ekki voru menn þó búnir undir það, að láta verða af bygging það sumar; en næsta sumar, 1890, var kirkjan byggð, og er hún all-snotrt hús með steinsteypu-veggjum, spón-þaki, forkirkju og turni; en veggir eru kalkaðir utan og innan og hvelfing yfir að innan.

Að þessu má heita að allt hafi gengið vel fyrir söfnuðinum. Menn voru yfir höfuð sáttir og sammála á allri eynni um kirkjumál, og mikill meiri hluti eyjarbúa var í söfnuði. Reyndar höfðu menn í norðvestr-hluta eyjarinnar orðið óánœgðir út af því, að söfnuðrinn sá sér ekki fœrt að koma upp samkomuhúsi, sem þægilegt væri fyrir þá að nota, og

höfðu einir þrír búendr fyrir þessa sök sagt skilið við félagskapinn; en ekki olli þetta neinni almennri óánœgju, og söfnuðrinn mun hafa staðið í blóma eftir sem áðr. En nú dregr upp ský á himni safnaðarins. Á fundi, sem haldinn var fimmtudaginn 26. Marz 1891, varð tíðrœtt um rœðuefni séra Magnúsar Skaftasen, safnaðarprestsins, næsta helgidag á undan. Þann dag hafði hann flutt prédikun, sem andmælti harðlega fordœmingarkenning lútersku kirkjunnar. Var þetta hjá honum að eins inngangr til annars meira, eins og smátt og smátt kom í ljós, þar til hann kom fram sem algjörr Únítari. En ekki var öllum þetta ljóst í fyrstu, og voru margir í Mikleyjar-söfnuði eins og annarsstaðar í Nýja Íslandi, sem trúðu honum til þess að hann væri eins vel lúterskr eftir sem áðr. Á þessum fundi var hann ráðinn sem prestr safnaðarins fyrir næsta ár, með því skilyrði þó, að hann leiddi hjá sér að prédika um fordœmingarlærdóminn. En þetta gat auðvitað ekki verið nema bráðabirgðar-fyrirkomulag. Eftir því, sem prestrinn varð ákveðnari í trúarafneitan sinni, urðu menn ákveðnari ýmist með skoðun hans eða móti henni. Út af þessu risu því harðar og vaxandi deilur í söfnuðinum.

Á fundi 6. Apr. 1891 kom það til umrœðu að segja sig úr kirkjufélaginu, en því var þó frestað að sinni. Næsti fundr, haldinn 16. Okt. s. ár, var mjög fjölmennr, og á þeim fundi gekk talsverðr hópr manna í söfnuðinn. Voru þá meðmælendr séra Magnúsar í algjörum meiri hluta, og var samþykkt úrsögn safnaðarins úr kirkjufélaginu. Safnaðarnefndin hafði á undan fundinum sagt prestinum upp þjónustu hans, en sú uppsögn var dœmd ómerk af fundinum. Virtist því flokkr þessi vera búinn að ná þeim tökum á söfnuðinum, sem hann ekki myndi sleppa ; en til var þó í söfnuðinum minni hluti, sem var öflugr, vegna þess hann var einbeittr í því að yfirgefa ekki hina lútersku trú vora og hið lúterska kirkjufélag vort, og þessi minni hluti var ekki til þess búinn, að leggja allt vald í hendr þeirra, sem litu öðruvísi á málin.

Þegar svo var komið, sáu menn fram á það, að söfnuðrinn myndi sundrast, og þá varð kirkjan að deiluefni. Sjálfsagt hefir sú deila meðfram orsakazt af misskilningi manna á

félagseignum. Sá misskilningr var mjög ríkr hjá oss Íslendingum í Ameríku framan af. Mönnum gekk svo undr seint að skilja þá hugmynd, að ólögbundnir mannflokkar geta aldrei haldið neinum eignum. Þeim fannst sjálfsagt, Mikleyingum öllum, sem eitthvað höfðu lagt til kirkjubyggingarinnar, að þeir ætti þann hluta í henni, hvort sem þeir stæði í söfnuði eða ekki. Kirkjan var í þeirra augum eins og hlutafélag, sem hver ætti þann hlut í, er hann hefði lagt til, þangað til honum væri greiddr sá hlutr aftr, þó það væri tekið fram í safnaðarlögunum, að hver, sem úr söfnuði gengi, missti allt tilkall til eignanna. Söfnuðrinn hefir sjálfsagt í fyrstu gefið nokkra ástœðu til þessa öfuga skilnings á málinu með því að hafa að minnsta kosti einn utansafnaðarmann í byggingarnefndinni.

Á því tímabili, sem menn séra Magnúsar voru í meiri hluta í söfnuðinum, var samþykkt, á fundi 15. Nóv. 1891, að ,,kirkjan skuli vera eign allra þeirra manna, sem trúa á þríeinan guð, sem Mikley byggja nú og síðarmeir.'' En víst hafa menn litið svo á, að þessi samþykkt væri einhver breyting frá upphaflegri stefnu og hefði ekki lagalegt gildi nema hún væri endrtekin síðar; því á þeim sama fundi var það samþykkt, að bera hana upp til atkvæða á næsta ársfundi safnaðarins í Janúar. En á þeim fundi sundraðist söfnuðrinn. Í hópi séra Magnúsar voru 19 manns, en að eins 7, sem fylgdu hinum upphaflegu safnaðarlögum. Þrír gengu úr og tilheyrðu hvorugum flokknum. Úr þessu varð minni hlutinn Mikleyjar-söfnuðr, og hélt hann lögum, bókum og eignum safnaðarins; en samþykkt sú, er áðr var nefnd, um kirkjueignina, var aldrei endrtekin. Harðri baráttu var svo haldið uppi út af kirkjueigninni í mörg ár, og gjörðist stundum ýmislegt sögulegt í sambandi við það mál. Má nærri geta, að þessi fámenni söfnuðr hefir átt örðugt með að berjast fyrir tilveru sinni með svo margt á móti sér. Söfnuðrinn hélt því ávallt fram, að hann einn ætti kirkjuna, en utansafnaðarmenn, að þeir ætti í henni það, sem þeir höfðu lagt í byggingarsjóðinn.

Um all-langan tíma var söfnuðrinn algjörlega prestslaus;

en haustið 1894 bœttist úr því. Þá kom til Nýja Íslands séra Oddr V. Gíslason, og réð Mikleyjar-söfnuðr hann fyrir prest sinn. Hann þjónaði þangað til á nýári 1900. Þá sendi söfnuðrinn þeim, sem þetta ritar, köllun; en ekki gat þó af því orðið, að hann byrjaði prestsþjónustu í Mikley fyrr en snemma á árinu 1901.

Snemma á því vori boðaði hann utansafnaðarmenn á fund í kirkjunni eitt sunnudagskvöld. Var þar rœtt um ágreininginn út af kirkjueigninni. Tóku þá utansafnaðarmenn vel í þær tilraunir að koma á sættum, og var samþykkt, að hafa skyldi sameiginlegan fund beggja flokkanna 15. Ágúst það sumar. Sá fundr lyktaði með fullkomnu samkomulagi. Buðu utansafnaðarmenn að sleppa tilkalli sínu til kirkjunnar með því skilyrði, að sú gjöf þeirra yrði auglýst í öðruhvoru íslenzka blaðinu í Winnipeg. Safnaðarmenn gengu að þessu, og var skilyrðinu fullnœgt eins fljótt og ástœður leyfðu. Með því var hinu langa stríði lokið, fullkominn friðr kominn á, en söfnuðrinn hélt kirkju sinni, og var nú framtíðin bjartari en nokkru sinni áðr frá því deilan hófst.

Heitasta þrá manna úr þessu var að fá kirkjuna vígða, og varð það að framkvæmd sunnudaginn 14. Sept. 1902. Vígsluna framkvæmdi séra Jón Bjarnason, forseti kirkjufélagsins, með aðstoð séra N. Steingríms Þorlákssonar og prests safnaðarins. Það var sannkallaðr hátíðardagr fyrir söfnuðinn, og margir glöddust, en líklega engir eins mikið og mennirnir, sem höfðu borið hita og þunga dagsins í gegn um allt stríðið.

Söfnuðrinn telr nú 60 fermda meðlimi, en 93 sálir. Kirkjueignin er metin á $800 og er skuldlaus. Síðastliðinn vetr var söfnuðrinn löggiltr samkvæmt lögum Manitoba-fylkis.

---

Hr. Pétr Hjálmsson, missíóneri íslenzka kirkjufélagsins, ferðaðist í Febrúar-mánuði til landa vorra í Pipestone-byggð, sunnarlega og vestast í Manitoba. Prédikaði hann þar þrisvar og skírði 5 börn. Á þeirri ferð kom hann og við í bœnum Brandon, dvaldi þar nokkra daga, prédikaði tvisvar í kirkju safnaðar þess, er tilheyrir kirkjufélagi voru, og skírði eitt

barn. Meðan hann stóð þar við gisti hann hjá hr. Árna Jónssyni, safnaðarstjóra og kirkjuþingsmanni frá síðasta ári.

Frá því í byrjan Marz-mánaðar og allt til loka Apríl-mánaðar var hann á missíónarferðum um Íslendingabyggðirnar út frá Manitoba-vatni og milli þeirra. Um þá starfsemi hans er þessi skýrsla frá honum sjálfum :

,,Marz-mánuð dvaldi eg í Grunnavatns-nýlendu (Shoal Lake). Messaði þar 6 sinnum; skírði 16 börn; uppfrœddi nokkra unglinga í kristilegum frœðum og fermdi 4 þeirra. — Meiri hluti manna þáði verk mín þakklátlega, en allir tóku mér alúðlega og greiddu fyrir mér, þótt Björn Þorsteinsson legði lang-mest í sölurnar með að flytja mig fram og aftr um byggðina og að lokum vestr að Lundum. Enn sem komið er, er enginn söfnuðr í Grunnavatns-byggð, en horfurnar fyrir að hann myndist fremr líklegar. Mesti fjöldi Ísl. flytr inn í þá byggð, og voru all-flestir önnum kafnir að byggja yfir þá, bæði þeir sjálfir og þeir, sem fyrir voru. Margir þessara landnema eru hlynntir safnaðarmyndun. Hér eru nokkrir menn, sem hugsa meira og betr um trúmál en almennt gjörist, og verða þeir hinar öflugustu stoðir kristilegs félagskapar, þegar til þess kemr. Annars verðr það hér eins og annarsstaðar, þar sem eg hefi kynnzt Ísl. í Canada, að œskulýðrinn, sem alinn er upp hér í landi, byggir mest og bezt lútersku fríkirkjuna, eins og eðlilegt er.

,,Á pálmasunnudag prédikaði eg í Lunda-samkomuhúsi. —Dvaldi eg nokkra daga hjá Halldóri Halldórssyni, en síðan flutti Jóh. Halldórsson mig alla leið norðr að Manitobavatnssundum (The Narrows). Í öllu sýna þeir feðgar og Páll Reykdal, að þeir eru af alhug hlynntir kirkjufélaginu.

,,Íslendingabyggðin fram með Manitoba-vatni austanverðu er enn mjög fámenn og strjál, og er það skaði, því menn eru þar sérstaklega áhugasamir um kirkju og kristindómsmál; einkum má þó tilnefna Jónas Kr. Jónasson og Sigrgeir Pétrsson. En ef byggðin þéttist af Ísl., sem sennilega verðr von bráðar, þá tel eg víst, að myndist lúterskr söfnuðr undir forustu þessara manna. Eg varð því miðr að hafa hraðann á, því land og vatn var að verða ófœrt af leysingu. Fór að eins

einu sinni um byggðina, skírði nokkur börn — 10 alls (þar af 7 systkini), prédikaði tvisvar á opinberum guðsþjónustusamkomum: á föstudaginn langa á heimili Einars Kristjánssonar (Narrows-pósthús), en á páskadaginn á heimili Jónasar Kr. Jónassonar í Siglunes-pósthéraði. — Síðan flutti Jörundr Eyford mig vestr yfir vatn til Kinosota; en þaðan fór eg með pósti til Big Point. Komu byggðarmenn all-margir saman til guðsþjónustu í hinu nýja samkomuhúsi þar, og prédikaði eg fyrir þeim, en eftir það höfðum vér samtalsfund til þess að ræða um safnaðarmyndun; og tóku menn hlýlega undir það, mál. — En á fám stöðum mœtir manni eins sannr kristindómr eins og meðal Ísl. í Big Grass. Eg dvaldi þar vikutíma hjá Árna Reyðford, til þess að fara yfir kristindómsfrœði með unglingum, sem höfðu þegar búið sig undir fermingu. Kristján Jónsson bauð íbúðarhús sitt til guðsþj. samk., flutti úr því öll húsgögn, en setti upp borð og stóla, með œrnum kostnaði. Síðan messaði eg þar 2. sd. eftir páska og fermdi 2 ungmenni og tók nokkra menn til sakramentis. Eftir á skutum vér á fundi og rœddum safnaðarmyndun. Sérstaklega létu þeir Jón Austmann og Jón Skanderbeg í ljósi áhuga fyrir því máli, enda gengu þegar í stað 10 bœndr í félag til þess að framfylgja safnaðarmyndun. Séra Oddr. V. Gíslason hefir undanfarið ár þjónað um þessar slóðir, og þó það hafi ekki verið nema endr og sinnum, bera samt bygðirnar óræk merki kristilegra áhrifa af starfi hans; og það væri sannarlega óskanda, að honum entist kraftar til þess að halda því áfram, því umfram allt þarfnast þessar byggðir, eins og reyndar allar aðrar, manns, sem dveldi þar tímum saman til þess að uppfrœða börn og unglinga og vinna að safnaðarmálum fyrir söfnuðina.“

---

Það slær heldr en ekki út í fyrir ritstjórn blaðsins „Verði ljós!“, þegar hún er að segja frá því, er gjörðist í missíónarmáli kirkjufélags vors á ársþingi þess í fyrra. Umboð, sem forseta félagsins var þar veitt, til þess að senda hr. Sigrbirni Á. Gíslasyni eða einhverjum öðrum efnilegum guðfrœðingi á Íslandi köllun hingað, leggr blaðstjórn sú svo út, að kirkju-

þingið með því hafi í verkinu mótmælt því áliti séra Björns B. Jónssonar, er kom fram í ritgjörð hans í fyrra í „Sam.“ um prestaskort vorn, að guðfræðingar frá prestaskólanum í Reykjavík með skoðunum þeim á biblíunni, sem sá af kennurunum þar aðhyllist, er mestan þátt á í útgáfu „V.l.s“, eigi ekkert erindi hingað og myndi ekki mótmælalaust fá inngöngu í kirkjufélagið. Hefði hr. Sigrbjörn verið hlynntr þeim skoðunum á ritningunni, sem það blað hefir svo eindregið haldið fram, þá mátti vel leggja þetta þannig út. En þar sem það var hér alkunnugt, meðal annars af grein þeirri frá hr. Sigrbirni sjálfum, er stendr í „Sam.“ frá Október 1901, „um ‚kritíkina‘ í Danmörku“, að hann er þeim skoðunum andstœðr, þá nær þessi útlegging engri átt. Meðfram og ekki hvað sízt fyrir þá sök, að þessi guðfrœðingr hefir í því tilliti heilbrigðar trúarskoðanir, var sérstaklega á hann bent af kirkjuþinginu sem œskilegan hingað til samvinnu með oss. Þetta hljóta mennirnir, sem standa að „Verði ljós!“, að vita. En hví þá að fleygja þessum ósannindum út í almenning? Myndi „niðrstaða hinna vísindalegu biblíu-rannsókna“, sem það blað hefir svo mikið gumað af, réttlæta slíkt? „V. l.!“ talar um framkomu séra Björns í ágreiningsmálinu út af ‚kritíkinni‘ sem „kátbroslegan barnaskap“ og sömuleiðis sem „hvalablástr“. En hvað á þá að segja um framkomu aðalandmælanda hans á Íslandi—þessa sérstaklega, sem nú hefir verið bent á?

---

—Kirkjuþing næsta, sem haldið skal í kirkju Argyle-safnaða, á að byrja fimmtudaginn 18. Júní um hádegi með opinberri guðsþjónustu. Auglýsing því viðvíkjandi stendr í „Lögbergi“ frá 30. Apríl. Í sambandi við kosning erindsreka, sem söfnuðir kirkjufélagsins senda á kirkjuþing, gjöri menn svo vel að veita henni athygli.

---

—Samkvæmt tilmælum nefndarinnar í sunnudagsskólamáli kirkjufélagsins, samþykktum á fundi hennar í Winnipeg 25. Júlí síðastliðið ár, verðr sunnudagsskólafundr sá hinn sérstaki, er haldinn skal í sambandi við kirkjuþingið, að þessu sinni settr inn í það, en ekki eins og í fyrra geymdr þangað til eftir þingið. Á sama hátt verðr og nú í ár hagað bandalagsþinginu, samkvæmt ósk bandalagsþingsins í fyrra.

---

Séra Stefán Paulson, sem þjónað hefir söfnuði nokkrum í New Rochelle í útjaðri stórborgarinnar New York síðan hann prestvígðist 1899, hefir nú tekið við öðru lútersku presta-

kalli mjög álitlegu í bœnum Williamsport í Pennsylvaníu (St. Mark's Luth. Church). Hann er einkar vel metinn meðal starfsbrœðra sinna þar eystra og einn meðal þeirra, er mest hafa gengizt fyrir því að mynda kirkjudeild þá hina nýju, sem nefnist ,,The Ev. Luth. Synod of New York and New England'' og samanstendr að eins af ensku-mælandi söfnuðum. Þeir hafa skilið sig frá hinum þýzku trúarbrœðrum sínum, því samvinnan þótti ervið tungumálanna vegna. En hvorirtveggja heyra General Council til eftir sem áðr.

---

ALDAMÓT fyrir 1902 eru fyrir skemmstu komin út frá prentsmiðju ,,Lögbergs'' í Winnipeg. Ársrit þetta er svo sem kunnugt er gefið út af prestum ísl. kirkjufélagsins, og ritstjóri þess eins og áðr séra Friðrik J. Bergmann. Þetta er 12. árgangrinn, og hefir hann orðið næsta síðbúinn. Efn ,,Aldamóta'' þessara er: þrjú kvæði eftir séra Valdemar Briem—,,Tíbrá'', ,,Undir feldi'' og ,,Hví skáldið þegir''; tveir kirkjuþingsfyrirlestrar frá í fyrra: ,,Að Helgafelli'' eftir séra Jón Bjarnason og ,,Straumar'' eftir séra Björn B. Jónsson; tvær rœður eftir séra Friðrik J. Bergmann: ,,Hverjar kröfur ætti þjóð vor að gjöra til skálda sinna?'' og ,,Köllun nemandans''; ,,Heimatrúboð'', ritgjörð eftir sama; ,,Undir linditrjánum''—bókmenntaþáttr eftir ritstjórann. — Ritið til sölu hjá prestunum, hr. H. S. Bardal hér í bœnum og fleirum. Verðið 50 cts. — Skólasjóðr kirkjufélagsins nýtr ágóðans af sölu ,,Aldamóta'', ef nokkur verðr.

---

Hr. Jón Þorvaldsson, guðfrœðis-kandídat, höfundr ritgjörðarinnar í seinasta blaði ,,Sam: *Hvers vegna trúi eg á Jesúm Krist?*—er útskrifaðr frá prestaskólanum í Reykjavík árið 1897, fœddr 1876. Að afloknu embættisprófi hefir hann um hríð dvalið í Danmörk til þess að kynna sér kirkjulífið þar, sérstaklega starfsemi heimatrúboðsins, sem honum að mörgu leyti hefir getizt vel að. Hann hefir síðastliðinn vetr dvalið hjá séra Bjarna Símonarsyni, prófasti Barðstrendinga, að Brjánslœk, hefir sótt um Stað á Reykjanesi og prestvígist væntanlega þangað á þessu sumri öndverðu.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar''.

---





Pr[illegible]ðja Lögbergs. — Winnipeg.